# Nockrar
# Athugasemdir
fyrir
# Altarisgaungufólk,

uppskrifadar

af

Þorvardi Jónssyni,

Sóknar-presti til Hofs og Spákonufells Safnada
i Húnavatnssýslu.



Kaupmannahøfn.
Prentadar hjá P. N. Jørgensen.
1835.

Til beggja

# S a f n a d a n n a

i

Breidabólstadar Prestakalli.

Þad er mér glediðleg stund, Elskulegu Vinir! sem eg brúka til ad tileinka Ydur þessar altaris-gaungu Hugleidingar, hvörjum eg ádur hefi lofad Ydur og þér víst hafid lengi eptirvænt. Vor fyrri ástúdlega vinátta og samband í andlegum efnum; sú krafa sem þér réttilega høfdud til mín um alla mér møgulega uppfrædingu í Ydar sálu hjálpar efnum og minn fúsi vilji og eptirlángan til ad fylla þessa skyldu mína, gjørir mér lettbært ad voga ad leggja þessu fáu ord, Ydar vegna, fyrir almennings augu, svo ad þér gétid fengid aptur ad sjá þad, sem eg leitadist vid ad innræta Ydar úngdómi, þeim er eg leidbeindi til Kristninnar. Ef ad gudræknar sálir vildu med athygli kynna sér þessar hugvekjur ádur enn þær gánga til Kvøldmáltidarinnar helgu athafnar, er eg sá trúmadur ad vona, ad einhvør kunni ødlast greinilegri þánka um Altaris-Sakramentisins náttúru og augnamid, og

máské líka fyrirbyggjast þad kaldsinni og þánkaleysi, sem ríkir í ofmargra sálum undir þessari helgu athøfn. Géfi Gud þenna ávørt af þessu litla verki, vildi eg játa, ad eg ecki hefdi varid ødrum tíma betur af mínum frístundum, heldur enn þeim, sem eg eyddi til ad skrásetja þessar Hugleidingar.

Hofi á Skagaströnd þann 10 Febr. 1835.

P. J.

# Inngángur.

Þegar vér vorum skírdir, gengum vèr inni Jesú Christs kyrkju-félag, vér medkéndum oss þá undir eins til hans lærdóms, lofudum ad lifa eptir hönum og fordast alt sem hönum væri mótstædilegt; undir eins ödludustum vér rétt og adgáng til allra þeirra andligu gjæda, sem vor Frelsari Jesús af Nazaret hefur afrekad og fyrirheitid sinu fólki. Þá vér-nú þannig vorum ordnir sáttmálabundnir vid Gud fyrir Jesúm Christ og hans lærdóm, tókum vér oss nafn eptir heiti vors Trúarbragda-stiptara, til adgreiníngar frá ödrum, og köllum oss Kristna; en vér eigum líka ad sýna þad á oss i þaunkum, ordum og verkum, ad vér séum Kristnir; vér eigum ennfremur opinberlega ad vidurkénna, ad vér elskum og adhyllustum vorn guddómlega Lærimeistara Jesúm, elskum þá dygd og þau sidgjædi, sem hann baud, og gjöra oss líka Gudi og hönum: Fyrir heiminum eigum vér opinberlega ad vitna: ad vér medtökum þenna vorn Jesúm fyrir vorn allrastærsta velgjörara, vorn Drottinn,

hvørs bodum vér finnum oss skyldt ad hlýda; ad vér séum sannfærdir um: ad hans lærdómur leidi hinu beinasta, óhultasta óg vissasta veg til farsældar, eins og ad alt hans liferni sé hid eptirbreitnis-verdasta munstur, sem vér finnum oss svo ljúft sem skyldugt ad fylgja í øllu; og loksins eigum vér opinberlega ad vidurkénna: ad vér trúum, ad hans pína og daudi sé medal til ad forlíka oss vid Gud. Í stuttu máli: vér erum skyldugir til ad medkénna oss opinberlega til Jesú Trúarbragda; kunngjøra opinberlega fyrir vorum medkristnu: ad vor hjørtu séu altekin af lotningu, hlýdni og þacklátsemi vid vorn Frelsara og Trúarbragda-stiptara.

Ad vér séum Kristnir, ad vér medtøkum Jesúm fyrir vorn Frelsara og Sáluhjálpara, ad vér byggjum alla vora von um Guds nád í tíma og eylífd á hans lærdómi og fyrirheitum, á hans lífi og dauda; þad vidurkénnum vér opinberlega, þegar vér gaungum ad Jesú Kvøldmáltídar-bordi, og etum þar af brauðinu og dreckum af kaleiknum. Allt eins og vér nú í skírninni inngengum í Jesú kyrkju-félag, og lofudum ad lifa og breyta sem kristnir, svo ítrekum vér og opinberlega endurnýum, í hvørt sinn sem vér neytum Kvøldmáltídar Sacramentisins, vor heit og lofanir, um ad vera Jesú, hans bodordum og vilja trúir; sømuleidis, svo sem vér í skírninni skuldbindum oss til vissra hluta og fáum þarfyrir einskonar rétt og adgáng til vissra gjæda, svo endurnýum vér þessi

sønn heit vid sérhvørja Kvøldmáltidar nautu, endurnýadá stadfestingu uppá þad, ad hans fyrirheit sannlega skuli á oss uppfyllast og vér verda hluttakandi i þeim andlegu gjæðum, sem hann hefur heitid oss og útvegad, þegar vér audsýnum oss svo sem hans trúir tilbidjendur. Þegar vér tókum skirn, vottudum vér ad vér vildum vera kristnir; en þegar vér neytum þeirrar heiløgu Kvøldmáltidar, vitnum vér opinberlega fyrir Gudi og mønnum, ad vér séum þad sem Jesú lærdómur hvetur oss til ad vera. Vér skulum, nú medkristni bródir og systir! af stiptan, náttúru, réttri brúkun, og undirbúningi til Kvøldmáltidarinnar reyna til ad uppgøtva Jesú Kristi vors Frelsara blessunarríka tilgáng med því ad innsetja medal vor i Kristnina sína heiløgu og hatidlegu Kvøldmáltid, og jafnframt skulum vér leitast vid ad læra, hvørninn kristnum manni byrji ad hagnýta sér þetta sáluhjálpar medal sínum Frelsara til dýrdar og heidurs, en sjálfum sér til farsældar.

## I.

## Um Innsetningu þeirrar H. Kvøldmáltidar.

Eins og vér høfum i Ritningunni, helst i Nýatestamentisins bókum, vissa og óbrigdula reglu fyrir øllu, sem vér eigum ad trúa og gjøra; svo finnum vér einnig hja Mattheusi i 26, 17—29, Marcusi 14 Cap.

12—25 v. Lúcasî Cap. 22, v. 27—33, og Páli Postula 1 Corinth. Cap. 11, 23—25 v. hina áreidanlegustu og fullkomnustu frásögn um innsetningu þeirrar heilögu Kvöldmáltidar. Af þessu lærum vér: ad vor Frelsari Jesús Kristur siálfur hefur bodid og innsett þessa heilögu athöfn, og er þetta eitt, fyrir utan annad, nóg til ad gjöra oss Kvöldmáltidina hædst merkilega og vyrdingar verda; þared vér eigum ætíd ad elska og þacka vorum Jesú af öllu hjarta, fyrir alt þad góda, sem hann hefur oss gjört med sínum lifnadi lærdómi, lísi og dauda. Hér ad auki er hann nú vor Drottinn, og hefur keypt oss sér ad eigindóms fólki, hann hefur þvi fullkominn rétt til ad heimta af oss veigrunar- og undantekníngarlausa hlýdni vid öll sín bodord.

Jesús innsetti þá heilögu Kvöldmáltid undantekníngarlaust fyrir alla þá, sem medkénna sig til hans lærdóms. Ecki voru þad þeir 12 Jesú Postular einir, sem voru nærverandi vid Jesú sídustu máltid, þá er hann og innsetti Kvöldmáltidina, er hann baud ad endurnýa sína minning med þessari heilögu athöfn; heldur vildi Frelsarinn einnig, ad allir sínir tilbidjendur, nær og hvar helst sem þeir væru, skyldu minnast sín, med því ad rækja þessa sína skipun. Þessvegna innleiddu Postularnir lika Kvöldmáltidina i alla þá söfnudi sem stiptadir voru, hvört heldur sem voru af Gydingum eda Heidingjum, og á þessi heilaga athöfn ad vidhaldast medal Jesú tilbidjenda

svo lengi sem þeir lifa á þessari jördu, og þessi heimur er adseturstadur kristinna manna. Já vér eigum ad minnast Jesú i Kvøldmáltídinni, þángad til hann kémur ad dæma lifendur og dauda 1 Cor. 11, 16, þá skulum vér fá ad sjá hann eins og hann er, þá skal vor trú og vor von, vid hvørjar vér nú verdum ad lifa, snúast uppi eigin skodun og áþreifingu; vér munum þá og ecki framar þurfa ad endurnýa á þenna hátt minningu vors góda Jesú og hans velgjørninga.

Athugasemd. Hiá Lúcasi gudspjallamanni Cap. 22, V. 19—22 finnum vér ad Júdas Iscariot hafi verid nærverandi þegar Jesús innsetti Kvoldmáltidar Sakramentid, og ad hann hafi neytt hennar med hinum Lærisveinunum; þaraf má ráda, ad ecki hofum vér rétt til ad útiloka þá frá þessari heilogu athøfn, sem vér vitum edur meinum óráðvanda i breitni sinni og hugferdi; þvertámóti skyldum vér, alteins og Jesús gjordi Júdasi, leitast vid med þessu, sem hvorju odru betrunar-medali, ad hræra þeirra hjørtu til betrunar.

Jesús innsetti þá heilogu Kvøldmáltíd á þeirri nátt sem hann svikinn var, ad eins fáum stundum ádur enn hann géck út til pínunnar, þá þegar hann var reidubúinn ad stadfesta med blódi sínu og dauda þad nýa Testament edur sáttmála þann, sem Gud fyrir hans medalganngu gjørt hafdi vid mannkynid, og þann trúarbragda og sida-lærdom, sem hann í síns Fødurs nafni hafdi ként.

Athugas. Ísraels ættkvíslir plögudu árlega ad neyta Páskalambsins til endurminningar frelsunar þeirra fedra frá Egyptalands þrældómi. Jesús stiptadi Kvoldmáltídina, strax eptir ad hann hafdi neytt Páskalambsins med sínum Lærisveinum, hefur hann eflaust hérmed viljad tákna: ad svo sem Ísraelitarnir minntust med þacklátum hjørtum fedra sinna frelsunar frá Egyptskra ánaudar-oki, svo miklu meiri orsök hefdu hans Lærisveinar og undir eins allir kristnir, ad fagna yfir Jesú Christo, sem frelsadi þá og oss frá vanþeckingar og villu myrkri, frá synda og lasta skadlegu verkunum i tíma og eylífd, en leidbeindi oss til sannrar farsældar og Guds þeckingar.

Þegar Jesús innsetti Kvøldmáltídina, tók hann fyrst braudid, gjørdi Gudi þackir, braut þad og skipti því á milli sinna Lærisveina og sagdi: þetta er minn líkami, sem útgéfst fyrir ydur, gjørid þetta i mína minningu. Því nærst tók hann kaleikinn eda bikarinn med víninu, gjørdi Gudi þackir, gaf sínum Lærisveinum og sagdi: dreckid allir héraf, þetta er mitt blód, sem úthellast skal fyrir ydur og marga til fyrirgéfningar syndanna; gjørid þetta, svo opt sem þér þad dreckid, i mína minningu.

Þegar Jesús þannig innsetti sína heiløgu Kvøldmáltíd útdeildi hann braudinu og víninu med þeim ummælum, sem bædi táknudu hans fyrirheit og bodord; hvørutveggi þessi atridi vid innsetningu þessarar heiløgu athafnar, verdum vér nákvæmlega ad athuga.

Athugas. Hvort sem nú þackargjørd vors Frelsara ádur hann útdeildi braudid og vínid verid hefur sú

sama sem fyrir adra venjulega fædu, ellegar sérleg Lofgjörd til Guds fyrir þær andlegu velgjördir, sem Jesús nú vildi ad Guds rádi og vilja afreka mannkyninu, svo meigum vér ecki ætla, ad braud og vín ödlist neinn sérdeilislegann krapt, vid yfirlesturs bænarinnar Fadir Vor og innsetníngar ordanna, heldur er þarmed táknad i kristnum söfnudum, ad þessi helga nautn eigi ecki ad þéna til líkamlegrar sadníngar, heldur til þacklátrar sér í lagi einkandi og ávaxtarsamrar endurminníngar um þá velgjorníngar, sem Jesús Christur med sínu eptirdæmi, sínum lærdómi, lífi og dauda hefir afrekad oss.

Í ordum þeim, sem Jesús brúkadi til ad innsetja med þá helgu Kvöldmáltíd, liggur eptirfylgjandi dýrmætt fyrirheiti: svo sannarlega sem þér nú sjáid og med ydar skilníngarvitum smackid og medtakid þetta braud og vín, svo sannarlega skal eg útgefa minn líkama í písl og kvalir, láta úthella mínu blódi og leggja mitt líf þar ofaná, fyrir ydur, vegna ydar sáluhjálpar, svo ad þér getid ödlast adgáng til syndanna fyrirgéfníngar.

Athugas. 1. Postulinn Páll kémst svo ad ordi um þetta sama »i Altaris Sakramentinu verdum vér gjördir »hluttakandi i Jesú líkama og blódi.«

2. Þared vor guddómlegi Frelsari á þennann hátt innsetti þá helgu Kvöldmáltíd, hefur hann efanlega hér med viljad á líkamlegann hátt tákna: svo sannarlega skyldu þeir hafa gott af sinni pínu og dauda, og svo vissulega verda hluttakandi í öllum þeim andlegu gjædum, sem hann med

sinu lífi og dauda hefdi heiminum afrekad, svo sem þeir nú neyttu þessa brauds og víns.

Í innsetníngar ordunum baud Jesús sínum Lærisveinum ei alleina ad neyta braudsins og vínsins, heldur einnig ad gjöra þetta í sína minníngu. Þetta sídarst tálda, hvad Lærisveinana snerti, midadi þá einkum og sérdeilis til Frelsarans (nálæga) yfirhángandi skilnadar vid þá, og til þess, hvörsu þeim eptir hans burtför byrjadi ad hegda sér; hann vill hér med segja: þér megid nú ecki gleyma mér, eptir þad eg er frá ydur vikinn; en þér skulud tídka þessa heilögu athöfn til ad vidhalda minníngu minni. Þvínærst midadi þetta Frelsarans bodord til ad innleida í Kristnina, þad er: medal allra þeirra, sem medkéndu sig til Jesú Trúarbragda, eina almennilega reglu og tilskipan; því þar=ed allir njóta góds af þeim velgjörníngum, sem Jesús héfur afrekad mannkyninu, svo skyldi þad líka yfirhöfud tjá hönum sitt hreinskilna þacklæti, varma kjærleika og veigrunarlausa hlýdni og audsveipni, og enn framar, þared manneskjan ætíd er veik og holdlega sinnud, svo þarf hún ætíd styrkingar vid í trú sinni og hlýdni; einnig er henni þeirrar sannfæríngar þörf, sem þessi nádarmáltíd veitir: nl. ad Frelsarans fyrirheit vissulega skuli á sér uppfyllast.

Athugas. Þad er audskilid ad Jesús vor Frelsari engannvegin baud sínum tilbidjendum ad tídka þessa hátíd=

legu athofn, til þess ad vidhalda sinni minníngu, þeirri ad hann eittsinn verid hefdi til medal þeirra, verid þeirra ást-údlegur vinur, svo sem adrir þeir menn, er vér þráum vegna margs ágjætis þeirra. Nej! Jesú tilbidjendur og Lærisveinar áttu ad minnast hans, sem þess Guddómlega og af Gudi virkilega senda Sannleiks-kénnara, hvors lærdómi og bod-ordum þeim bar ad fylgja og hlýda i öllu, eins og komid væri frá sjálfum Gudi. Þeir áttu ad minnast hans, svo sem hins fegursta og fullkomnasta dygda munsturs, eptir hvörju þeim byrjadi ad laga hugarfar sitt og breitni. Þeir áttu ad minnast hans, sem mannkynsins ædsta og stærsta vel-gjorara, sem ecki einúngis med lærdómi og lifnadi, heldur og med pínu sinni og dauda, hefdi opnad þeim veg til dygdarinnar, farsældarinnar og himinsins. Þarfyrir þegar Jesús nú ástilur ad hans tilbidjendur skuli eta braud og drecka vín i sína minníngu; svo býdur hann undireins ad þessi sín minníng skuli vera verkandi og ávaxtarsöm og láta sig i ljósi i verklegri framfor i öllum gódum verkum.

Sýnilegt er þad af þvi sem nú var sagt, hvört verid hafi Jesú augnamid med Kvöldmáltidarinnar inn-setníngu. Hann vildi fyrst med athöfn þessari gjora sínum vinum skiljanlegt ad hans Pína og Daudi ecki væri nockur ógjæfa, heldur sannarlegur ávinníngur fyrir þá; þarnærst vildi hann géfa þeim efni til ad minnast síns yfirvættis kjærleika til þeirra, svo þeir þar med upphvetjast mættu til ad elska hann aptur í móti; hvör elska sídan skyldi af sér fæda lotníngu fyrir hans lærdómi og stöduga hlýdni vid hans bodord. Loksins vildi hann hér med géfa þeim og

øllum oss vissa sannfæringu um: ad þeir og vér sannlega skyldum hluttakandi verda i þeim velgjørningum, sem hann hafdi þeim og øllu mannkyni afrekad, þegar trú þeirra hug- og fram-ferdi væri samqvæmt hans nádar-bodskap.

## II.

### Náttúra þeirrar heiløgu Kvøldmáltidar.

Af frásøgunni um innsetningu þeirrar heiløgu Kvøldmáltidar, er hægt ad skilja, hvørninn hennar rétta náttúra og ásigkomulag er.

Þar af lærum vér fyrst, i hvørju Kvøldmáltidin sé innifalin, nl. i því, ad vér i Jesú minningu neytum braudsins og vínsins, einkum til endurminningar um ad hann leid pínu og danda fyrir vorar syndir og oss til sáluhjálpar.

Athugas. Athøfn þessi kallast Máltid, af því vér neytum brauds og víns, en Kvøldmáltid nefnist hún, fyrir þad hún var innsett um kvøld-tíma; Heiløg kallast hún enn framar, af því hún er tidkud i ádursøgdu háleita augnamidi. Ennfremur er hún nefnd Sameining, bædi fyrir þad kristnir menn neyta hennar i sameining hvør med ødrum, og líka fyrir þad hún á ad samteingja kristna til systkynalegrar einingar, svo sem þau, er Kristur hefur øllsaman endurleyst.

Þar af lærum vér i annann stad, ad sú heil. Kvøldmáltid enganveginn er mannasetningar, heldur

af sjálfum Drottni vorum Jesú Kristo tilsett, og stendur í nákvæmu sambandi við þá endurlausn sem hann hefur oss afrekað; og er sérhvör kristinn, sem því er varinn, skyldur hana að tidka, vegna þessa uefuist hún ogsvo Drottins Kvøldmáltið.

Athugas. Það segir sig sjálft að þeir einir eru hæfir til að neyta þeirrar heilögu Kvöldmáltíðar, sem hafa fulla skynsemi og greinilega þeckingu á Jesú og hans endurlausnar-verki.

Af frásøgnunni um Kvøldmáltíðarinnar innsetningu lærum vér þá í þriðja máta, að jafnvel þó hún í raun og veru sé útvortis líkamleg athøfn, á hún samt að vera sálar vorrar verk, og henni medal til að hefja hátídlega sína þánka frá því sýnilega til þess ósýnilega, samt þacklátlega að endurkalla til hjartans viðkvæmu tilfinningar, það sem Jesús hefur oss gott gjørt; hérmeð ætti þá einnig að kvikna hjá oss kappsamleg viðleitni til að færa oss hans velgjørninga til sem bestra sálarheilla og framfara.

Athugas. 1. Alleins og brauð og vín eru hér næringar og styrkingar meðol fyrir líkami vora, svo er og alt það sem Jesús hefur oss veitt og géfið hentasta medal að styrkja vora sálar rósemi helgan og útvalningu. En á líkann hátt og brauð og vín þá að eins styrkir, endurnærir og gledur oss, er vér réttilega og skynsamlega neytum þess, en að oðrum kosti ránglega brúkað skaðar oss, svo gétur og Jesú endurlausnarverk einúngis orðið oss til sannrar nytsemi, þegar vér eptir vors Frelsara tilætlun verjum því til að styrkja oss í kristilegri dygð og guðhræðslu.

2. Med því vér vitum ad alt þad sem vor Frelsari hefur gjørt og lidid oss til sáluhjálpar, er skéd eptir ráds ályktunum og fúsum vilja Guds vors náduga Fodurs, svo flýtur þad af sjálfu sér, ad sjálfkrafa framkallast i vora sálu, þegar vér i Altaris Sakramentinu minnumst Jesú velgjorda, þánkinn um Guds vidleitni til ad gjora oss timanlega og eyliflega farsæla, sem Kvoldmáltídin hátídlega minnir á, hvetur oss til veigrunarlausrar hlýdni vid hans fodurlega vilja og til oruggs trúnadar-trausts til hans miklu miskunsemi. Nú erum vér þá þar ad komnir med vorar athugasemdir, sem vér berlega gétum séd, ad Jesú Kvoldmáltíd er etthvort hid kroptugasta medal til eblingar i gudhrædslu og ollum kristilegum dygdum.

Í fjórda máta lærum vér af innsetningu þeirrar heilogu Kvoldmáltídar, ad hún af Stiptarans hálfu er pants en af vorri hálfu skuldbindingar-athofn. Sérhvorjum þeim sem réttilega og maklega neytir þeirrar heilogu Kvoldmáltídar géfur vor Frelsari þvílíka fullvissu: svo sannarlega sem þú nú medtekur braud og vin, svo sannarlega hefi eg útgéfid minn likama og blód fyrir þig, afrekad þér sáluhjálpina og keypt þig mér ad eigindómi.

Athugas. Ritningin segir oss med fáum ordum, hvad vér odlumst i Kvoldmáltídinni, nl. undireins og vér medtokum braud og vin sáum vér pant og fullvissu um þann mikilvæga sannleika: ad Jesús Kristur er fyrir oss dáinn og hefur oss útvegad alt þad, sem vér med-þurfum, til ad lifa farsælir i heiminum og sullsælir i himninum.

En af vorri hálfu, þegar vér neytum Kvøldmáltídarinnar, medkénnum vér ecki Jesúm alleina fyrir vorn Drottinn og sáluhjálpara; heldur skuldbindum vér oss undir eins til ad heidra hann í øllum vorum verkum, sem vorn Drottinn og Endurlausnara, og andsýnum oss sem réttkristna, einkum í því: ad vér elskum vora medbrædur, eins og Gud og Jesús hafa oss elskad.

Athugas. Þetta hid sama tákna ord Páls Post: 1 Cor. 10, 16 hvar hann talar um Kvoldmáltídina:

Sá blessadi kaleikur hvørn vér blessum, er hann ecki hluttekning í Kristi blódi, þad braud sem vér brjótum, er þad ecki hluttekning í Kristi líkama (þad er í hans pínu og dauda).

Meiningin í þessum Postulans ordum eptir samanhenginu er: eins og þeir, sem átu af afgudsoffrinu, meintu, ad þeir mundu njóta heilla af vináttunni vid hina sølsku Gudi, fyrir hvørja offrin voru framborin, alt ad einu votta Jesú tilbidjendur, þegar þeir neyta þessarar nádarmáltídar, ad þeir séu sannfærdir um sína sameiningu vid Jesúm og um sína hluttekningu í øllum þeim andligu gjædum, sem þeirra Frelsari ádur fyrri í sínu nidurlægingar og nú í sínu upphafningar standi hefur afrekad og vill framvegis veita sínum sonnu tilbidjendum.

Af øllu því ádursagda má nú í fimta máta ráda ad innsetning þeirrar heil. Kvoldmáltídar er í sjálfu sér mjøg nytsamt bodord af vorum Frelsara géfid. Þessi heilaga athøfn á nl. ad þéna oss 1) til ad styrkja vora trú á Jesú Kristo vorum Frelsara og

vora sannfœringu um ad vér séum hluttakandi vordnir þeirrar nádar og sáluhjálpar, sem hann hefur oss útvegad; 2) til ad uppvekja, vidhalda og i framferdi voru ad auglýsa kjærleika vorn og þacklátsemi vid Jesúm og vid Gud vorn, sem gaf oss hann fyrir Endurlausnara, og fylgjanlega þá 3) til ad efla vora huggun og vora von um Guds nád fyrir Jesúm Kristum; og til ad knýa oss til at elska af rót hvor annann innbyrdis, þared Jesús hefur elskad oss svo heitt, ad hann gaf sitt líf út fyrir oss.

En hina allra dýrmætustu og nytsömustu hluti má svo vanbrúka og medfara, ad þeir ecki ad eins verdi ad engu gagni, heldur og einnig skadi mann; svo gétum vér og vanbrúkad þá heilögu Kvöldmáltid, svo hún ecki einúngis verdi oss ónýt, heldur og, svo til enn þýngra dómsáfellis, 1 Cor. 11, 28; vér hugleidum þá enn framar:

### III.

Rétta brúkun heil. Kvöldmáltidar.

Adur er med fám ordum á þad vikid, ad öllum kristnum mönnum, sem hafa fulla skynsemi og greinilega þeckingu á Jesú og hans endurlausnar-verki, byrji ad tidka Kvöldmáltidina. Ad þetta eigi ad ské optar enn einusinni, og ad vor altarisgánga ecki megi einúngis sjaldan stad hafa, er audséd af vors Herra bodi, sem útþryckilega giörir rád fyrir ítrekun þessarar heil. athafnar. Enn jafnvel þó Frelsarinn aldrei

hefdi þeſsa óſkad, þá mundi það ſjálfkrafa hafa flotið af þeſsari athøfn og hennar náttúru. Nauðſynlegt er oſs jafnaðarlega að ſtyrkja vora trú og vorn kjærleika til Jeſú vors Frelſara og vors Guðs; og ættum vér þá ecki fegins hugar að neyta þeſs tækifæris, ſem Jeſús hefur þar til géfið oſs með Kvøldmáltíðarinnar innſetningu? Hvørjum ſem það er ſønn alvara og eginnlig hjartans eptirlángan, að vera ſannkriſtinn, hann mun með meſtu unaðſemd ſálar ſinnar nota það meðal, ſem Drottinn ſjálfur hefur valið hønum til framfara i kriſtilegri trú, guðsótta og ráðvendni.

Svo opt ſem vér nú gaungum til Drottins Kvøldmáltíðar, verðum vér umframm alla hluti að gæta vor, að vér ecki hirðulauslega, þánkalauſt né með kaldſinni, heldur réttilega og maklega gaungum til þeſsarar heil. athafnar, ſvo ſem hennar náttúra útkrefur; því ſá ſem óverduglega géngur til Guðsborðs, er ſekur við hold og blóð Drottins, 1 Cor. 11, 26; hann ſyndgar á likann hátt og hann hefði með ráð og dáð hjálpað til að misþirma vorum Jeſú og lifláta hann; hann ſviptir ſig þarfyrir ecki alleina þeim notum, ſem han gat haft af þeſsari athøfn, en etur og drecku þarhjá ſjálfum ſér dóm, það er: uppádregur ſér með þvilikri nautn Guðs ſtraff og misþóknan, af því hann gjørir engann greinarmun á Drottins likama og annari fæðu, 1 Cor. 11, 29, þegar hann með þánkalauſu kaldſinni ſvo nálægir ſig til þeſsarar náðarmáltíðar og géfur engann gaum að:

hvad þessarar máltidar hátidlega nautu og Jesú bodord upphvetja hann til.

Sú rétta og verduga brúkun heilagrar Kvøldmáltidar er einkum innifalin, í þessu þrennu: Nefnil. 1) ad vér nálægjum oss þessari helgu nautn med réttu hugarfari; 2) ad vér undireins gjørum þad sem þessi athøfn med sér færir; 3) látum hana med oss verka þad, sem hún rædur til samkvæmt sinu augnamidi.

Ef vér viljum annars vera réttilega sinnadir, þegar vér gaungum til Drottins Kvøldmáltidar, meigum vér: 1) ecki birtast þar af-sidvana, edur til ad ødlast þad nafn: ad vér séum kristnir, heldur af lotningarfullri vyrdingu fyrir vors Frelsara bodi; 2) í þeim tilgángi ad minnast Jesú og hans dauda; 3) med sannri eptirlángan, ad verda adnjótandi endurlausnarinnar ávarta, altsvo med laungun eptir ád ødlast vissu um fyrirgéfningu syndanna og eylífa sáluhjálp. 4) Med þeim fasta og stødnga ásetuingi: at vilja vera þacklátir vid Jesúm fyrir hans kjærleika, og sýna þad í øllum vorum verkum, ad vér séum Jesú hreinskilnir vinir, sem af hjarta viljum fordast allar syndir, og gjøra þad sem rétt er fyrir Gudi.

a) Ef vér nú viljum komast í nád hjá Gudi, verdum vér, eptir fyrirmælum heil. ritningar, ad umvendast, þvi án undangángandi umvendunar eda betrunar, er engin syndafyrirgéfning møgnleg. Nu er umvendanin í þvi fólgin: ad vér sjáum og vidurkénnum,

ad vort sinnislag og framferdi ecki sé eins og það á ad vera, og ad vér høfum það adhafst til hugrenningu, orda og verka, sem Gudi er mótstædilegt, sem syndugt er, vanheilagt ránglátt í hans augliti, og sem það verkar, ad vor óhreina fleckada sál ecki gétur, svoleidis ásigkomin, komist í nockra sameiningu vid Gud; þessi vidurkénning vors ófullkomlegleika, breiskleika og yfirsjóna, hlýtur þá ad uppvekja ydrun og trega fyrir drýgdar syndir. Géti oss nú skiljist það: gétum vér sannfærst um og ødlast vidkvæma tilfinningu af því, ad alskonar synd og vanart í þanknum, ordum og verkum, spillir og eydileggur alla vora gledi og farsæld í þessu lífi, sviptir oss Guds vináttu og ræner oss allri grundadri von um sælu í tilkomandi eylífu lífi; svo gétur ecki hjá því farid, ef vér annars eins og skynsemi gæddar manneskjur viljum sjálfum oss vel, ad oss ydri þess vonda, sem gjørt hefir oss óluckulega og mun gjøra, ef vér ecki látum af ad æfa það og elska.

b) Það sem oss eptir skynsamlegri umþenkingu og hreinni sannfæringu ydrar ad hafa gjort, býdur sú sama skynsemi oss ad fordast fram vegis; er nockur skynsøm manneskja sú, sem med fúsum vilja gengur inn í það hús, hvar hún ádur hefur mætt høggum, forsmán og misþirmingu; eda mun nockur med fullu viti um þann veg fara, á hvørjum hann ádur var af ræningjum yfirfallinn, og má enn vita ad hann sviptur yrdi lífi og velferd, ef um hann færi? en nu mirda og eydileggja syndir vorar tímanlega

andlega og eylífa farsæld vora og gledi. Hvad gétur verid náttúrlegra, heldur enn ad vér fordast viljum af alebli þessa leidu fiendur vorrar farsældar? Hvad er oss meira áridandi? þegar vér eittsinn hofum ordid fyrir þeirra skadrædi. Vidurkénning syndanna hlýtur þarfyrir ad fæda af sér ydrau og kroptugann vidbjód vid þeim, svo vér neytum allra krapta til ad sigra vora girnd og lyst til hins vonda, láta af því, en venja oss á gott ad giøra.

c) Þarfyrir þá vér þannig skinjum og sannfærumst um hvad straffsverd syndin er, og hvad ógjæfusamlegar hennar afleidingar eru, gétur ecki hjá því farid ad kviknu í vorum hjörtum eins sterk hlýdni vid Gud, eins sterk elska til Guds og dygdarinnar, og vidbjódurinn verdur vid löstum og ódygdum; kémur þá svo um sídir, ad vér ecki alleina látum af ad giøra þad vonda, heldur ødlúmst vér einnig lyst, fjør og krapta til framkvæmdar Gudsótta, dygdar og rádvendni; þegar þannig er vordid vört sálar ásigkomulag, meigum vér med réttu nefnast umvendtir syndarar, sídan er vér med þessu ángri yfir syndum vorum, med alvarlegum ásetningi ad láta af fyrri yfirsjónum, med stødugri lyst og laungun til hins góda, framkomum fyrir Gud med audmjúku hjarta og bæn um nád og fyrirgéfningu fyrir Jesú sakir, svo vill Gud þá veita oss, sem þvílikum trúudum og ydrandi syndurum, vorra synda fullkomna fyrirgéfningu.

d) Fyrir utan þvílíka sanna betran vors hjartalags og framferdis, er engin synda fyrirgéfning möguleg; hvör syndari þessvegna, sem girnist ad komast aptur í nád vid Gud, hlýtur fortakslaust ad umvenda sér. En hérhjá krefur ritningin en framar: ad vér skulum trúa á Drottinn vorn Jesúm Kristum, ef vér eigum hólpnir ad verda. Án trúarinnar gétur Jesú forþénusta ecki vordid oss til nota, án hennar höfum vér og enga huggun eda hressingu af nockru því, sem Jesús hefur oss gott gjört; eda hvör mundi meining þessarar ritningarinnar skilmálabundnu kröfu: „vér skulum trúa, ef vér viljum hólpnir verda?" sannlega þessi: vér eigum í hjarta voru ad vera sannfærdir um þad: at allt þad sem Jesús lidid hefir, þad hafi hann fyrir oss lidid, og hvad hann gjört og framkvæmt hefur, hafi hann gjört fyrir vora skuld, og ad vér fyrir hans sakir ödlustum náð og syndakvittun hjá Gudi vorum himneska Födur. Umvendanin og trúin eru þá, eptir Jesú og Postulanna lærdómi, þeir 2 höfud-eginlegleikar, sem finnast eiga hjá öllum sannkristnum. Manneskjan byrjar med umvendaninni ad komast í sannrar farsældar ásigkomulag, en trúin á ad fullkomna mannsins sælustand. Umvendan án trúar géfur mannsins hjarta og samvitsku litinn frid, en kveikir óróssemi í sálunni. En trú án undanfarinnar umvendunar er eigin táldrægni og ástædulaus ímindan. Umvendid ydur, betrid ydar hug- og framferdi, látid af illu en lærid gott ad gjöra,

ef þér annars þenkid til ad verda farsælir hér og sídar; skynsemi vor og heilög ritning hefur þessa ætíd krafit og krefur enn af öllum manneskjum, og ef vér ecki fyllum þessa kröfu, gétum vér ecki einusinni heitid heidarlegar né gódar manneskjur, enn sídur sann-edur réttkristnir. Trú þú á Drottinn vorn Jes-úm Kristum, svo skalt þú hólpinn verda. Þad er eitt bodord og undireins eitt fyrirheiti, sem umvendtum gódum og dygdugum manneskjum gésid er, öllum er heyra raunstu Jesú Evangelíi, hvar med þeir ödlast fullvissu um: at þeirra ófjálfrádu yfirsjónir og breiskleiki ecki skuli reiknast þeim efni til dóms-áfellis, heldur verda þeim af nád fyrirgéfnar Jesú vors Frelsara vegna.

Sá óumvendti, sá sem af ásetningi er vondur og ógudlegur, hann hvörki má né gétur trúad i þeirri meiningu, sem ordid trú hefur á þessum stad. Nei, hann má ecki trúa, því Gud hefur hvörgi lofad, ad vér skulum vegna Jesú hólpnir verda, þegar vér af frivilja og med ásetningi höldum áfram i hinu vonda og elskum vora fyrri lesti. Hann gétur og ecki trúad: Þad er eins ómögulegt og þad er fyrir mordingjann, þjófinn eda ræningjann, ef hann annars er med öllu vitinu, ad vænta ad hann géti friast frá straffi, medan hann heldur áfram ad eydileggja frid og farsæld mannlegs félags, enn þó ad landsins yfirvöld kunn-gjört hafi, ad allt þad vonda, sem hann híngad til framdi, skuli vera gleymt, þegar hann betri sig, þegar

hann láti af fyrri syndum; eins ástædulaust er fyrir syndarann ad trúa ad Gud muni taka sig til nádar og fyrirgéfa sér undanfarnar syndir, medan hann ecki lætur at þeirri vondu breitni, sem Jesú vors Frelsara lærdómur svo stránglega fyrirbýdur undir töpun timanlegrar og eylífrar farsældar, og medan hann eckért hirdir um ad æfa sig i því góda, sem sami Jesú lærdómur áskilur og upphvetur til.

Hvör sem nú vildi spyrja, med hvada hugarfari hann þá eigi ad gánga til Guds bords, svo verdur svarid þetta: Vér ödlustum i þeirri heilögu Kvöldmáltid kröptuguslu fullvissu um vorra synda fyrirgéfningu. Höfum vér nú ecki ádur enn vér nálægjum ofs þessari nádarmáltid, fyrir umvendan vora og trú, ödlast fyrirgéfningu syndanna, svo gétum vér ecki, þó vér neytum hennar, framar fyrir þad feugid fyrirgéfningu, né heldur nockra vissu um hana ödlast; þad sem Gud vill ecki géfa ofs vegna vors betrunarleysis, þad gétum vér ecki ödlast, og um þad gétum vér enga vissu fengid, sem aldrei er til.

Nei! þad er ecki nema umvendtir og betradir syndarar, ecki nema þeir einir, sem ydrast syndánna og finna hjá sér lyst og laungun til þess góda, er géta gjört sér grundada von um fyrirgéfningu syndanna og nád hjá Gudi sinum himneska Födur; enginn fær nád fyrir Jesúm Christum nema sá, sem umvendist og betrast, hvar af þad flýtur, ad enginn nema sannbetradir synd-

arar og rétttrúadir géta verduglega neytt Kvøldmál-
tidarinnar.

Þegar vér þarfyrir neytum Kvøldmáltidar Sakra-
mentisins, eigum vér gudrækilega og med vidkvæmu
hjarta ad snúa þannkum vorum til Jesú vors End-
urlausnara og hans fridþægjandi dauda; þvi nærst
eigum vér med þacklátu hjarta ad minnast Guds yfir-
vættis kjærleika í þvi; ad senda oss sinn son og med
hønum þá ómetanlegu velgjørninga, er Jesús hefur
med lifi sinu og dauda afrekad oss; og loksins eigum
vér ad stadfesta i vorum hjørtum þann ásetning, ad
lifa hønum til dýrdar, sem dáinn er fyrir vorar syndir
og uppriſinn oss til réttlætis.

Þad heyrir einnig til Kvøldmáltidarinnar verd-
ugu nautnar; ad vér bakeptir ogsvo høfum voru
Frelsara Jesúm i huga og minni, enn gleymum høn-
um ecki þegar, er þessari heiløgu athøfn er lokid.
Hátidlegur á oss ad vera sérhvør vor altarisgaungu
dagur, sem helgadur er Jesú minningu. A þessum
degi eigum vér ad géfa oss tíma til ad þeinkja
grandgiæfilegar, enn vant er, um alt þad sem Jesús
hefur gjørt oss gott, og hvad óendanlega mikid vér
sénum hønum skuldbundnir þarfyrir, svo og hvad mikid
gott vér héreptir gétum af hønum haft, ef vér legd-
um allann hug á ad hlýda hønum; med einu ordi:
þann dag sé hjarta vort altekid af þeim þannkum,
hvørsu komid hefdi verid voru rádi án Jesú hjálpar,

hvad hærst dýrmætur hann er oss, og hvad óendanlega sælir vér gétum ordid fyrir hans velgjörninga.

Athugas. Fleirstum þikir sinn fædingardagur merkilegur og frá honum vér reiknum nýtt og nýtt tímabil æsi vorrar; en þannig á líka sérhvor vor Altarisgaungu dagur ad vera oss merkis-dagur, því hann er einskonar endurfædingar dagur vors andlega lífs; í hvört sinn sem vér gaungum til Gudsbords eigum vér þessvegna ad reikna frá hinum nærsta undangengna Kvoldmáltídar degi vora framför í dygd og Guds ótta, og ætíd á þessum degi spyrja sjálfa oss á þessa leid: Ertu nú ordinn verri eda betri sídan þú varst seinast géstur vid þetta nádar-bord? Eda ertu nú þeim mun betri ordinn, sem þú gatst, áttir og lofadir ad vera? Af því sem nú var sagt, er þad audsært, ad vér engan daginn fullnægjum skyldu vorri, þó ad vér, þann daginn sem vér gaungum til Altaris, höldum oss frá vondum verkum, og þó vér verjum þessum fáu stundum til bæna og gudrækilegra hugleidínga. Nei, Medkristni! ef þú vilt verduglega minnast Jesú, sem þig hefur frelsad frá þínum óvin, þá átt þú ad þjóna honum í réttlæti og heilagleika alla þína lífdaga. Þau gódu og dygdugu áform, sem lifna í hjarta þínu, þegar þú gengur til Altaris, átt þú umhyggjusamlega ad vardveita í sálu þinni og kostgæfilega ad framkvæma í þínu líferni, en gjörir þú ei þetta, afneitar þú ad nýu þínum Drottni og leidir yfir þig handvissa fordjörfun.

Liggi oss nú annars þúngt á hjarta ad géta odlast sannann hæfilegleika til nautnar Kvoldmáltídarinnar, svo verdum vér líka réttilega ad tilreida oss þar til, sem er innifalid í því

ad vér tokum oss fyrir hendur athafnir og hugleidingar, sem líklegar eru til ad helga og betra sál vora og hjarta. Því tolum vér þá sátt eitt

IIII.

## Um Undirbúníng til þeirrar heilögu Kvöldmáltidar.

Þar til heyrir þá fyrst og fremst, ad vér í hvört sinn, sem vér viljum gánga til Gudsbordsins, nákvæmlega og med allri alvörugéfni tökum til yfirvegunar: **hvad vér nú viljum gjöra, í hvada tilgángi vér tökum fyrir oss þessa mikilvægu athöfn og med hvörju hugar-fari og géds-munum vér eigum ad henni ad gánga.**

**Athugas.** Hvad gjörum vér nu, þegar vér nálægjum oss Jesú nádar-bordi? Vér eigum þá ad minnast Jesú, segir ritníngin, minnast hvad hann hefur gjört,ként og lidid oss til réttlætis, helgunar og eylífrar sáluhjálpar. Til hvörs eigum vér nú þannig ad minnast Jesú í Kvoldmáltidinni? Þad er fyrst vegna Jesú, og í annann stad vegna sjálfra vor; Jesú vegna, af því hann sjálfur baud þad, ogsvo fyrir þad, ad hann sem mannkynsins stærsti og besti velgjörari ætid verdskuldar ad vera oss í ferska minni; sjálfra vor vegna fyrir þad, ad oss géfist í þessari H. athöfn hin allra kroptugasta upporfun til dygdanna æfingar, til Gudi þóknanlegs hug-og fram-ferdis, odlustum þá og hátidlega fullvissdu um, ad Jesú velgjörningar og forþénusta sannlega skuli koma oss til gagns og góda, ef vér trúum

hans ordum og fyrirheitum og med alvarlegri og stodugri lyst og laungun hlýdnustum: hans heilogu bodordum og vilja.

Eir med hvorju hugarfari eigum vér þá ad ganga til Guds bords? Þángad eigum vér ad gánga sem sannumvendtir og betradir trúadir Kristnir; þannig, ad vér med allri greind skinjum, finnum til og ydrunist eptir ad hafa gjort þad vonda, enn forsómad þad góda; þannig, ad med oss sé ordinn grödursettur stadfastur ásetníngur til ad strída meir og meir vid og sigra vora náttúrlegu vanart, en æfa oss betur og betur i ollu gódu og kristilegu framferdi, og ad sidurstu þannig, ad hjarta vort sé hrært af þacklætis og kjærleika tilfinning til Guds, fyrir þad, hvad vel hann vill oss, hvada óendanlega miskun hann um eylifa tid vill audsýna vorum sálum, ef vér látum hans anda og hans Sonar ord vid oss ráda til betrunar og helgunar, gétum vér ad eins betrakt svo, ad mogulega séum hæfir til sambúdar helgra anda i hans riki.

Sé oss annars ant um ad géta verduglegá geingid fram ad Drottins Kvoldmáltid, þá krefur ritningin af oss þessu nærst, ad vér skulum prófa sjálfa oss, þad er: vér eigum ad rannsaka vort hjartalag og framferdi, hvornin þad verid hafi ad undanfornu, svo vér gétum vitad hvorsu komid sé voru sálar ásigkomulagi, hvort vér gétum þannig gengid verduglega til þessarar heilogu máltidar.

Athugas. Þú átt ad prófa þig sjálfann, minn medkristni! og hvad áttú þá ad prófa? hvorki meira né minna enn þetta mikilvæga spursmál: ertu sannulega umvendtur og trúadur syndari? hefur þú þackláta tilfinningu

af því, sem Guð og þinn Frelsari hafa þér gott gjört? hefur þú einlægann vilja og stöðugann ásetning til að fylgja í öllu, sem þú getur, Jesú lærdómi og boðorðum? hefur þú að undanförnu gjört allt það góða sem þú gatst og áttir að gjöra? hefur þú vilja til að verða hér eptir ástundunarsamari í öllu góðu heldur enn hingað til? Ef að þú getur með góðri samvitsku svarað já uppá öll þessi spursmál, þá getur þú til sannrar huggunar þér, upphvatningar í öllu góðu og rósemis eblingar, etið af brauðinu og drukkið af Kaleiknum.

En sjá, þú meðkristni! vér höfum allir syndgað og höfum stórt á þeim heiðri sem fyrir Guði gyldir, þar er enginn réttlátur og ekki einn, vér drægjum og sjálfa oss hástalega á tálar, ef vér ímindudum oss að gjort hefðum alt hvað vér áttum að gjöra. Ef þú gjörir þér þvílíka þánka um þig, minn vin! ef þú ætlar að þú sért nógu góður og Guð gæti verið ánægður með þig eins og þú ert, þá ert þú lángt frá þeim sanna kristindómi, og haltu þér þá öldungis frá Herrans Kvöldmáltíð, því þá etur þú og drekkur óverðugur, þá etur þú og drekkur sjálfum þér dóm.

Viðurkénnir þú þarimóti með ángri og trega, að þú sért hvorki né hafir verið svo góður, sem þú bæði gatst og áttir að vera, og sé þér það hrein alvara að erfiða dag frá degi uppá helgun þíns hjarta og betrun þíns framferðis, svo reyniſt Guð þér Guð allrar náðar og miskunar, sem viljugur er til að veita sínum veiku og brotlegu börnum meira gott enn þau géta þeinkt eða umbeðið. Auðmýktu nú þitt hjarta fyrir þessum góða Föður, og mun hann upphefja, þig og jafnan styrkja og efla þína krapta til at géta fullkomnað það góða verkið, og þá getur þú með slíkum hug gengið að hans

Sonar nádarbordi, munt þá og sjá þar augliti til auglitis þann sannleika i fegursta ljósi, ad Gud vilji allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleikans vidurkénníngar.

2 Athugasi. Framar flýtur nú af öllu þessu, ad madur verdur nákvæmlega ad gjæta sín, ad ecki gjori hann sér betri þánka um sig, heldur enn i rauninni er, en þvílikum raungum þaunkum er sjálfs elskunni mjog tamt ad innsmeigja hjá manni, en svo er þó þessi grein skadleg sálar velferd vorri, ad þarvid verdur oll betran ómoguleg; þar um kvedur Jesús svo ad ordi: heilir hafa ecki læknarans þorf, heldur þeir, sem sjúkir eru. Hvor sem gjorir sér heilbrigdi upp, þrátt fyrir þad þó daudinn sé búinn ad inntaka oll hans lidamót, hann vill ecki med lækningar hafa, edur ef hann þá fyrst leitar sér hjálpar, er oll lífs von er úti; en sá sem þeckir, vidurkénnir og hefur tilfinníng af sinum sjúkdómi, leitar ráds í tíma og odlast þvi aptur heilbrigdi, í hid minsta forsómar hann ecki ad brúka þau medol, sem likleguſt eru til bata, og helst ef þau standa i hans valdi. Allt er nu hid sama hvad áhrærir vor andlegu efni, ef vér þikjumst nógu gódir, hirdum vér ecki um ad betra oss og finnum heldur ecki til laungunar eptir Guds nád; en hardúd hjartans vidvarir alt jafnt og manneskjan verdur æ meir og framar óhæfileg fyrir Guds nád; þó ad nú þessu framfari um lánga tíma, nálgast ecki ad sidur daudi og dómur þess óbetrada syndara, hvad enginn deudlegur fær umflúid, kémur þá ad því loksins á lífsins kvoldstundu, ad þvílikir gyrnast Guds nád og fá ecki.

Frelsari vor hefur í sínum lærdómi gefid oss i vald, hvorja adferd vér brúkum i vorri opinberu Guds dýrkun; svo þegar vér annars hofum lært Guds ord hreint og klárt og haudtérad Sakramentin eptir Jesú

innsetningu og fyrirmælum, gétum vér brukad þá kyrkjusidi til vorrar uppbyggingar, sem á hvørjum stad er vidtekid af Kristninnar forstjórum; enn þared þvílíkt á ad þéna til sameginlegrar andaktar og hværri einstakri manneskju til sálargagns, svo flýtur þaraf, ad vér eigum, þegar vér gaungum til Drottins Kvøldmáltídar, rækilega ad uppfylla þvílíkar vidtektir i søfnudinum.

Þannig er vidtekid ad skriptamálin séu ætid haldin á undan Kvøldmáltídinni. Vér søfnumst þá saman med vorum kénnifedrum, til ad medkénna vorar syndir, annadhvørt med hárri raustu edur hjartans þegjandi málfæri, og til ad útbidja oss Guds nád og þeirra fyrirgéfningu hjá vorum himneska Fødur; þared nú þvílíkt þénar til hjartans upplyptingar og andaktar eblingar, samt til alvarlegs eptirþánka um þad sem vér fyrir hendi høfum, byrjar oss med allri gudrækni ad fylgja þessum sidvana.

Athugas. Enginn skyldi þó ætla, ad hann fái fyrirgéfningu sinna synda hjá Gudi einungis fyrir þad hann gengur til Skrifta og Altaris; þvi þad stendur engannveginn i prestsins valdi ad fyrirgéfa syndirnar, þegar Gud ecki vill fyrirgéfa þær, en hvorki vill Gud né gétur fyrirgéfid þeim óumvendtu syndurum, sem med gédþekni og ásetningi i þeim áframhalda og engann stadfastann vilja né ásetning hafa til ad strída framvegis vid sína lesti og ódygdir; héras er audsært, hvorsu ógrundud og hvikul sú ímindan er, sem margir einfaldir gjøra sér og hafa gjort útaf þessum ordum Jesú

Joh. 20, 23: hvørjum helst sem þér fyrirgéfid syndirnar, þá eru þeim þær fyrirgéfnar, og hvørjum þér þær apturhaldid, þá eru þeim þær apturhaldnar, sem einúngis tilheyrdu hans Lærisveinum, hvorja hann útbjó med krapti síns Anda og visdómi til at þeckja innvortis ásigkomulag þeirra, er umvendtir sneruzt til Jesú lærdóms og gyrntust Guds nád og réttlætinguna fyrir Jesúm Kristum hinn krossfesta. En sídan er vondir og gódir nálægja sig Jesú kvøldmáltíd og þiggja ádur skriftamál og aflausn af prestsins hendi, svo er kénnimannsins ad eins ad ipreka þá fullvissu, sem Jesús hefur géfid i sínum lærdómi, um þad: ad Gud vilji einkis syndara dauda, heldur ad hann umvendist og lifi; og framar ad minna á þá nádarinnar skilmála, sem hljóta ad uppfyllast, ef fyrirgéfning á ad fást, hvarvid aflausnin ætid þarf ad vera skordud og fastsett. Önnur aflausn enn þessi skilmálabundna er ecki til þarfyrir, minn Medkristni! hvorsu opt sem þú gengur til skrifta og altaris, svo gétur þú enga von, eckért loford odlast um Guds nád, fyrirgéfníngu syndanna né eylift líf, medan þú ecki vilt láta af þvi vonda, ecki betra þitt hugarfar og framferdi: þvi þú ert á medan svo stendur, i þínum syndum; og hvad helst sem þinn kénnifadir tala kann til huggunar og uppørfunar þeim trúada og sannydrandi, þad kémur þér eckért vid, nær ecki til þín né þíns astands, þú hefur enga hlutdeild i Jesú nádarbodskap, þegar þitt hjarta og þitt liferni er þvertimóti Jesú krøfum, med hvørra uppfyllingu þó ad Guds nád og fyrirgéfning syndanna stendur og fellur.

Sá sem eptir øllum þessum ádursøgdu reglum hefur undirbúid sig til nautnar hinnar heiløgu Kvøldmáltídar, hann neytir hennar verduglega og hefur

þaraf þá dýrmætu nytsemi, að finna sig upporfaðann og styrktann til at lifa sem sannkristinn; innvortis friður og rósemi útbreiðir sig yfir gjörvalla sálina, og mannesfjan nýtur þeirrar unaðarsömu lukku sem dygð og guðhræðsla veita bæði i þessu og eylifu lifi.

Athugas. Hægt er hvorjum að skilja, að svo sem háttað er með tíðkun skriptamála og altarisgaungu yfir höfuð að tala, hið sama má um þessar helgu athafnir ætla, þegar manneskjan liggur á bana- eður sóttar-sæng sinni. Altið verðum vér að prófa sjálfa oss, altið að hafa staðfastann betrunar ásetning, sem vér síðar ætlum að framkvæma, ef vér verðuglega eigum að gánga fram að Herrans borði; en sé ecki þannig vort hugarfar snúið frá illu til goðs eptir Guðs vilja, svo etum og dreckum vér óverðugir, hvört vér erum svo sjúkir eða heilbrigðir.

En ærið tvísýn er margra Kvoldmáltíðar nautn á sóttarsænginni, hafi þeir lifað eptir sínum egin vilja og gjört hvað þá lysti til um alla sína lífdaga, án þess að hirða um nockra sanna eður alvarlega betrun, en ætlað sér það verk að vinna, þegar eckért væru orðnir hæfilegir til að vinna. En ó, maður! hugleið þú, hafir þú verið ofgóður til að rækja Guð og stunda kristilegt liferni á dögum velgengni þinnar og heilbrigðar, svo er Guðs náð og dygðarinnar umbun ofgóð þér til handa, þegar þér loksins hverfur heimurinn og hans syndsamlega gleði. Já þegar hinir vondu dagar koma, þegar sjúkdómurinn æðir um allann likamann, þegar dauðinn ógnar, vilt þú þegar i himininn, þá vilt þú forlíka þig við Guð, þá meinar þú að geta öðlast vissu um þína sáluhjálp, neytir þú að eins Kvoldmáltíðarinnar; en drag nú ecki sjálfan þig á talar, ó maður! með þessari fölsku von, því það stendur hvörgi i

ritningunni, ad þú megir breyta eptir vild þinni, og þurfir ecki annad vid daudans adkomu, enn láta sækja prestinn, neyta Kvöldmáltidarinnar og sídan vera víss um þína sáluhjálp. Nei, en hitt stendur skrifad: hvad manneskjan nidursáir þad skal hún uppskéra, hvor sem i holdinu nidursáir, mun af holdinu sína fordjorfun uppskéra; þar stendur og skrifad: giør hvad þér gott þikir, en Drottinn mun leida þín verk til dómsins; og gétur sá dómur aldrei fallid þeim i hug, sem áframhalda i þverúdarsamri ydkun sómu glæpa og illgiorda, ydrunarlaust alt ad sinni banasæng. Dómari hinna lifendu og daudu mun þá dæma og alt jardriki med réttvísi; en sá tár, sem daudans ángist og kvídi útpressar, géta enga umbreitíng gjort i dómi þess réttláta Guds; menn meina máské og hafa meint, ad þeir med þessu Sakramenti géti adkomnir dauda forlíkad sig vid Gud, en hafi þeir ecki ádur verid vid hann sáttir, svo skédur þad ecki heldur med þessu móti; því þegar vér adgjætum Kvoldmáltídarinnar náttúru og augnamid, svo er hún ecki, svo sem hér ad framan er ávikid, nockurt forlíkunar eda fridþægingar medal, heldur fullvissu og stadfestingar máltid fyrir þann, sem ádur er forlíktur vid Gud. Viljir þú því, minn Medkristni! géta dáid rólegur, þá lifdu vel og vanda þitt framferdi; en vid hitt skeytingarlausa og lastafulla líferni alt ad daudans dægri á eckért skyldt sá syndsamlegi breiskleiki, sem jafnan lodir i þessu lifi vid vora náttúru, yfir hvorjum jafnvel hinn best kristni Guds madur klagar á þenann hátt: „Þegar eg vil gjora þad góda, lodir þó jafnann vid mig hid vonda, því hid góda sem eg vil gjøri eg ecki, en hid vonda, sem eg ecki vil, þad gjøri eg.“ Sá sem þannig er lindur, elskar i raun og veru Gud og dygdina, og hefur sannann vidbjód á synd og ollu ránglæti; er sér þess medvitandi, ad hafa verkad i lifinu med gudhrædslu og rád-

vendni svo mikid til eiginn og annara velferdar, sem hans lífskjør og kríngumstædur tilléta, en þótt margskonar ófullkomlegleiki og breiskleika syndir hafi flekkad þad umlidna líf, og gjørt þad vanheilagt og straffsverdt fyrir Guds réttlæti, svo verdur Jesú Kvøldmáltíd med sannri trú á Jesúm Kristum og helgudu hjarta medtekin, þeim sjúku eda deyandi hid dýrmætasta medal til huggunar og fullvissu um syndanna fyrirgéfníngu og arftoku i Guds ríkis gledi og farsæld; auk þess ad þessi heilaga athøfn kastar hentugum skugga á þann forgengilega heim og alt þad sem i honum er, en uppvekur i sálunni fjøruga lyst og laungun til ad leysast hédan og fá ad vera hjá sínum Frelsara í Guds ríkis dýrd og føgnudi.

---

## Gudrækilegar yfirveganir og bænir fyrir þá, sem gánga vilja til Drottins Kvøldmáltídar.

### I.

Nu tekur sú stund ad nálgast, kristin sála! á hvørri þú ásett hefur ad neyta Kvøldmáltídar Jesú Krists þíns endurlausnara; Þarmed vidurkennir þú undir eins fyrir Gudi og mønnum: ad þú sért kristinn, ad þú hafir játast undir Jesú lærdóm, bodord og lífsreglur; ad þú med trúudu og þacklátu hjarta medtakir hann fyrir þinn endurlausnara, þinn lærimeistara og þinn Drottinn; ad þú af hjarta viljir audsýna hønum, á allan møgulegan hátt, kjærleika, lotn-

ingu og veigrunarlausa hlýdni; ad þú med öllum þínum sálar og líkams kröptum heyrir þínum Jesú til, sem hans keyptur eginndómur; og ad þú med þessari heilögu athöfn á ný endurnýir þín fyrri heit og loforð, um ad láta þér daglega framfara í öllum kristilegum dygdum og mannkostum eptir þíns Frelsara fyrirmælum og eptirdæmi, en ydrist þarámót af hjarta undannfarinna glæpa, yfirsjóna og breiskleika. Skuli nú öllu þessu verda til hlýtar framgeingt, skuli hjartad og sálin ödlast nockra sanna stadfestu, skuli þau verda altekin af helgri lyst og laungun til ad láta sitt hugarfar og framferdi vitna framvegis um þessarar opinberu játningar sönnu hreinskilni; svo þurfa á undan Kvöldmáltídarinnar nautn ad uppvekjast í þinni sálu heilagar og hátidlegar hræringar, hvar til þessi helga athöfn er yfrid hentugt medal.

Hvörjir eru þeir þánkar og hugmindir, sem hreifa sér í sálu þinni, minn vin! þegar þú sér þad helgada þýdingarfulla braud og vín framreidt fyrir þig? er þá ecki Jesús, sá ædsti og stærsti mannkynsins velgjörari, þinn fyrsti þánki? þreingir sér þá ecki fram í þínu hugskoti endurmining hans lærdóms, áminninga, eptirdæmis og kjærleika? sérdu þá ei berlega í huga þínum eptir honum, þar sem hann géck í náttmyrkrinu frá þeirri fyrstu Kvöldmáltíd úti grasgardinn, og sveittist þar blódinu; þadann undir svipuslög, barsmídi og lemstran í biskupsstofunni; sídan undir þá ófurlegu húdstrikingu í þinghúsi Pilatusar; já sérdu

ecki i hyga þinum, segi'eg, hvar hann gengur út úr Jerusalem allur sundurflakandi af sárum, og blódid streymir nidur af hans líkama? loksins kémst hann ørþreyttur út til Golgatha med þá þúngu krossblöck á þessu særda baki, hvar hann er á høndum og fótum streingdur út yfir hádunglegt krosstré. Ognar þér ecki, minn vin! þessi skélfilega sjón? Eda því er hann sá elskulegi Guds, i hvørjum Fadirinn hafdi alla sína velþóknan, þannig útleikinn? O! tekur þú ecki nærri hjarta þínu, ad verda þessu spurs-máli þannig ad svara: þetta leid hann fyrir mínar og allra veraldarinnar syndir; þetta átti eg ad lída sem upphlaups- og óbóta- madur í ríki míns skapara. Já! en sérdu nú ecki hvad hædst vidurstyggileg syndin er, hvad ill hún af stad kémur? Blygdastu nú ecki fyrir Gudi og þínum Frelsara, ad ogsvo þú hefur lagt þitt til, ad orsaka þeim heilaga saklausa þvílíkar píslir? Ydrastu nú ecki eptir hvad syndsamlega þú hefur lifad? Gengur þér ecki til hjarta, hvad ósegjanlega gjædskurikur þinn Gud er, ad láta þvílíkt ské þinna vegna? hvad órannsakanlegur Jesú kjærleiki er, ad leggja alt þetta á sig til ad fá þér snúid aptur á Guds veg, til ad útvega þér aptur Guds nád og von um eylífa farsæld.

Kvøldmáltídarinnar helga nautn uppvekur þá og í annann stad: Þánkann um mannkynsins aumkunarverda andlega ásigkomulag, þegar Jesús þannig med lærdómi, lifnadi, eptirdæmi, pínu sinni og dauda kom

því til hjálpar. Ottalegasta vanþekkingar og villu myrkur hvíldi nærfelt yfir gjörvöllu jardríki, þar af flutu vidbjódsleguſtu lestir og ódygdir, er burttekid höfdu allan svip þeirrar Guds-myndar, sem manneskjan var sköpud med í fyrstu, og ofaná óteljandi og óþolandi lífsins kvalrædi, sem héraf flaut, bar nú mannkynid á sér alskonar eymda, volædis og þrælkunar mind, og þessi vanhelgunar, lasta og ódygda stimpill sýndist þegar hafa lögtekid og ákvardad þá vesælu mannskepnu til tímanlegrar og eylífrar óhamingju. Ad þvílíkar skepnur gjætu sameiningar notid med Gudi og hans heilögum, var eins ómögulegt og ad sameina ljósid og myrkrid, Gud og syndina, Krist og Beljal. Þegar þannig var komid voru ládi, útþenkti Guds vísdómur og gjædska þetta eina mögulega hjálparmedal í sínum elskulega syni; og hann kom úr Födursins skauti, utbreiddi sanna Guds þeckingu, kéndi oss ad þeckja Guds födurlega hjartalag til manneskjunnar: ad hans nád stædi hvörjum þeim til reidu, sem léti af illu og lærdi gott ad gjöra; Guds algjörda og hreina helgunar og sidferdis lögmál útlagdi hann oss, og sýndi med sínu heilaga dæmi adferdina til ad fylgja því; med sínni pínu og dauda stadfesti hann sinn lærdóm og undir eins auglýsti sig þann af Gudi senda Frelsara og Sáluhjálpara. Hér var nú lífid og sáluhjálpin frambodin á ný; öllum fyrri þrautum og kvalrædi aflétt; allir skyldu framvegis verda eitt med Kristo, svo sem hann

og Fadirinn eru eitt, og um eylífa tíd njóta þeirrar sælu, sem ecki hefur auga séd, né eyra heyrt og eingum hefur til hugar komid. Allt þetta veitti Gud, og vor Frelsari afrekadi þad; einúngis ad vér nú vildum láta oss leida af þvílíkri yfirvættis Guds nád, og Jesú velgiörningum til sannrar umvendunar frá allri synd, til helgunar sannarlegs Guds ótta og rádvendni, svo vér ordid gætum vors Frelsara ágætt fólk, kostgiæfid til gódra verka; þessi er vor kristilega kallan, þessir nádarinnar skilmálar; og þeir eru ecki innifaldir i nockru endurgjaldi til Guds eda Krists fyrir oss veitta þvílíka miskunsemi, heldur ad eins sú krafa: ad vér ecki ad nýu ónýtum á oss Jesú mædusama og dýrmæta endurlausnar-verk, þar til hrærdir af því óendanlega dýra lausnargjaldi, sem útlagt er fyrir oss.

Allar þessar yfirveganir framkalla þá enn framar, minn vin! i þinni sálu, vid Jesú endurminningu, þann dóm, er þú naudugur viljugur hlýtur ad fella yfir hvørn þann, sem þessa sáttmála blód foraktar og almennilegt heldur. Já þú gétur ecki hjá því komist, ad finna i hjarta þinu til vidurstygdar fyrir þeirri manneskiu, sem, þrátt fyrir alla Jesú ósegjanlegu mædu, erfidi, píslir og kvalafulla dauda, med nýrri þvermódsku, óhlýdni, stífsinni og ógudlegleika, ónýtir á sér Jesú endurlausnar-verk. Enginn nema giør-spilt tilfinningar- og artar-laus sképna gétur goldid Jesú kaldsinni, óhlýdni og þvermódsku. Hvílíkur

syuda og lasta þræll, sem med itrekadri miskun og nád aldrei verdur til góds áunninn, er sannarlegt illgresi, sem til einkis er neitt og i eldi skal brennast, er virkilegur glötunar sonur, sem, útrekinn frá Guds nád, falla skal i þad ángistar afgrunn, hvar geymdir eru Guds og Jesú Kristi nádar foraktarar.

O! minn vin! aldrej, aldrei skalt þú þannig útlitandi setjast ad Jesú Kvöldmáltíd, nei, audmjúkur, þacklátur, ydrandi vilt þú nú framfalla fyrir þinn Frelsara og til hans upplypta hug og hjarta þannig:

Minn miskunnari! minn sáluhjálpari og minn ædsti vin! þú hefur bodid mér ad minnast þin, og nú hef eg til þess innilega lyst og fjörugt hjarta. Hjálpadu mér nú! ástriki Frelsari! til ad géta gjört þad verduglega. Minntu mig i dag á hvilikur þú vart, og ebl hjá mér hjartanlega laungun til ad likjast þér sem best eg gét i öllum kristilegum dygdum, i allri skyldurækt vid þinn og minn himneska Födur, vid sjálfs mins sönnu farsæld og minna medbrædra; þá ber eg á mér merki þad, sem þú vildir ad audkéndi þina lærisveina. Þú sem lifdir og dóst Gudi til dýrdar og oss mannesfjunum til andlegrar og likamlegrar blessunar, géf mér nú i dag lyst og krapta til ad brúka þannig mitt lif, ad þér vel þóknist; o! lát þessa og sérhvörja þina minningu algjörlega fánga mit hjarta, algjörlega skilja þad vid alla gyrnd og lifting til syndarinnar, algjörlega binda þad vid þig, sem einn átt þad, og dýrast hefur keypt

þad, æ! ad heimurinn fái þad nú aldrei meir dreigid frá þér og þinni dýrkun og dygdanna þjónustu. Þitt lof, þacklæti mitt og kjærleiki til þín brennur nú á altari míns hjarta; sá heiti varmi baldi í hræringu lífs og sálar kroptum mínum til þinnar og allra kristilegra dygda þjónustu allt til daudans, amen.

## II.

Hér ertu kominn, minn kristni vin! svo sem kristinn, svo sem sá, er heyrir Jesú Kristo til, vorum sameiginlega Frelsara, til ad vitna fyrir Gudi og mönnum: ad þú sért hans frelsíngi, tileinkir þér hans forþénustu, ad þú i hans nafni væntir ad fá fyrirgéfníngu þinna synda hjá Gudi. Þú vilt þessvegna ásamt þínum medkristnu setjast ad hans endurminníngar máltid. En hvørt er erindi þitt þángad? máské þú ætlir ad endurkalla i þitt hjarta minníngu hans ómetanlegu velgjørnínga vid þig, og undir eins viljir minna sjálfann þig á allar þær skyldur, sem Jesú nádarbodskapur áskilur af þér? eda máské þú gángir til þessarar heiløgu athafnar þánkalaus og athugalaus um sjálfs þíns ásigkomulag? máské fyrir sídasakir, til ad gjøra þig ecki fráleitann ødrum? eda þú óttist álas annara, ef þú ecki mættir hér? máské þú aldeilis ecki létir þig hér sjá, ef þú kvidir ecki fyrir ómildum dómum manna? o! ef ad þetta skyldi vera tilfellid, hvad vesælt er þá þitt sálar ásigkomulag, hvad óttalega þánka- og tilfinníngar-

laus manneskja mættir þú ei vera, ef þu gétur eingar hræringar fundid i brjósti þinu lifna, þegar þú minnist þeirrar elsku og umhyggju, sem Jesús bar fyrir þinni andlegu fullkomnun og farsæld, þegar þu heyrir ad hann segir: minn líkama og mitt blód géf eg út fyrir ydur til fyrirgéfningar syndanna. Þú skyldir athuga, kristin sála! ad Jesús þinn Frelsari hefur fyrir sjálfann sig eckért gagn af þinni altaris gaungu, en þú tapar sjálf øllum þeim dýrmætu ávørtum, sem þinn Frelsari ætladist til þú hafa skyldir af þessari sinni endurminningar máltid; og en framar, þú líka sem hædir ad þinum Frelsara og hans forþénustu, þegar þú gjørir engann mun þessarar helgu máltidar og annarar fædu; þú etur þá og dreckur sjálfum þér til enn þýngra dóms. Hafir þú, minn vin! hingad til þannig géngid til guds-bords, þá vakna þú upp sem sefur, sjá hvør hætta hér vofir yfir þér.

Hvørsu mundi þér bregda, minn vin! ef ad þinn Frelsari sýnilega opinberadist þér undir Kvøldmáltidarinnar nautn, kallandi þig med nafni, og uppkastadi þessu spursmáli: elskar þú mig fyrir allt þad sem eg hefi gjørt og lidid þér til visdóms, helgunar og sáluhjálpar? elskar þú mig, sem elskadi svo þina velferd, ad min sála hlaut ad vera hrygg alt i daudann og sem lét minn líkama þinna vegna húdstrikia og krossfesta? þér hefi eg i hendur fengid mina helgidóma, mina leyndardóma, eckért hefi eg af minu góda falid fyrir þér; en elskir þú mig ecki ennnú, svo lát þessa

mína endurminníngar máltíd uppvekja þig þar til, svo sem hún sýnir þér berlega mína elsku til þín, svo lát hana og vera mér merki til þíns kjærleika. Iminda þér þinn Frelsara enn framar ávarpa þig vid Kvøldmáltídar bordid : svo opt er þér veittur adgángur til þessarar minnar máltídar, og þó ertu enn svo kaldur, svo dosinn, svo tilfinníngarlítill, svo gjálífur, svo athugalaus, nær ætlar þú ad verda følskvalaus, stødugl yndur og tryggur vid mín bodord, vid minn vilja? nær viltu taka þau algjørlegu sinna skipti, sem í ordum þínum og verkum mættu vera þeckjanlegur vottur þinnar elsku til mín? nær ætlar þú fyrir kjærleikann ad verda algjør og til als góds verks hæfilegur? nær ætlar þú ad byrja ad afneita sjálfum þér og þínum gyrndum og tilhneigíngum fyrir míns nafns sakir? manstu þó ecki, hvad opt þú ert til nádar tekinn á ný? hvad opt þú hefur rofid vid mig þín særi? eda veist þú ecki ad eitt sinn verdur þad þó í sídarsta sinni, sem þú getur fengid nád hjá mér, hjá mínum og þínum himneska Fødur? skynjar þú þá ecki, hvílíkur hins óþackláta, ræktarlausa, minnar endurlausnar og nádar foraktara dómur hlýtur umsídir ad verda, sem hvørki lætur sig leida med áminníngum eda bendíngum, né heldur ávinna med velgjørníngum og ástarmerkjum til ad ástunda sanna helgun og verklega yfirbót? eda viltu nú í dag byrja ad elska mig í sannleika? og ef þú elskar mig, þá al þú saudi mína; láttu sjá í øllu sem þú getur, ad alir øun fyrst fyrir

egin sálu þinni og svo fyrir tímanlegri og eylífri velferð þinna meðkristinna; ef þú elskar mig, svo afneyta sjálfum þér, þínum vondu tilhnegingum og gyrndum, svo sem eg hafnaði allra tímanlegra gæða, já dýrð hjá mínum himneska Föður þinna vegna; ef þú elskar mig, þá æfðu þær dygðir fyrir mína skuld sem eg hefi þér boðið; ef þú elskar mig, þá trú mínum lærdómi, fylg mínu dæmi, vertu auðsveipur, þolinmóður og ánægður með þíns og míns himneska Föðurs ráðstafanir yfir þér; já, ef þú elskar mig, þá vertu mér trúr alt til dauðans.

Minn vin! þannig skalt þú vekja með þér heilagar hræringar, áður þú gengur til Drottins Kvöldmáltíðar. Hvílíkar spurningar hræra við samvitsku þinni, og inngéfa þér hinn fyrsta Evangéliska hæfilegleika til verðugrar brúkunar þessarar helgu og nytsömu athafnar. Lát ekki þann alskygna alstaðar-nærverandi Guð sjá þig einusinni svo djarfann, að sitja við Jesú Kvöldmáltíð, ef þitt hjarta er forherdt í ásetnings syndum, ef þú flytur með þér þángað þínar vondu gyrndir og tilhnegingar; þá ert þú litlu betri Júdasi; eða eru þínar óhreinu tilhnegingar og syndsamlegu gyrndir þau offur, sem þú vilt færa þínum Jesú á hans velgjörninga endurminningar degi? þú dári! eru það þakkir þær, er þú átt Guði og þínum Frelsara að kunna fyrir hans dýrmætu velgjörninga.

Nei, minn vin! rannsaka þig, prófa hið innra, áður þú setst við Jesú borð, hvört þig af hjarta ydrar

þeſs vonda, ſem þú gjørt hefur, hvørt það er þín alvara at affverja þér og ſtríða við þá vanart og ſkaplesti, ſem áður hafa ollað þér hrøſunar, og ef þetta er þinn einlægur vilji og ſtaðfaſtur áſetningur, þá byrja ſtrax að framkvæma hann, jafnvel áður enn þú nockruſinni byrjar þína altarisgaungu, og þá muntu finna að Jesú Kvøldmáltíð, með þeim hræringum ſem hún kveikir í hjarta þínu, ſtyrkir þig óſegjanlega; því þegar þú innvortis kémſt við af kjærleika og þacklátſemi við Guð og þinn Frelſara, þá lifnar undireins viljinn til að gjøra alt það ſem í þínu valdi ſtendur þeim til velþóknunar; þá kémur að því, að hans ok verður þér ſætt og hans byrði létt, og þú kémſt að lokunum að raun um, að það er ſatt ſem Jóhannes guðſpjallamaður ſegir: að Jesú boðorð ſéu ecki þúng, og að þau alleina ſéu til að gjøra þig ſannfarſælan bæði í heiminum og himninum.

---

## Aminning fyrir þá, ſem í 1ſta ſinn gánga til Drottins Kvøldmáltíðar.

Minn ungi kriſtni vin! Nú er það í fyrſta ſinni ſem þú áſetur at halda hátíðlega endurminníngu vors Frelſara Jesu Kriſti í þeirri helgu Kvøldmáltíðar athøfn, ſem hann ſjálfur innſetti. Nú er það í fyrſta ſinni, ſem þú hérmeð opinberlega viðurkénnir að þú

sért Jesú og hans Trúarbrøgdum heitbundinn vordinn; ádur ertu uppfræddur ordinn i þessum Trúarbrøgdum; Þú þeckir nú þann, sem þú hefur játad trú þína á, og þú veist allan grundvøll fyrir trú þinni, og hvad þad þýdir ad vera kristinn; en er þér i fersku minni, hvad þú med eydi fyrir skémstu hefur skuldbundid þig til. Géf þér nú, minn úngi vin! um fá augnablik tíd til ad nema hér stadar vid þetta fótmál; géf Þú nú gætur ad sjálfum þer og þinu undanfarna framferdi, mæl þad nú fylgistlaust vid þad sem þad átti ad vera; lít og eptir þinu núverandi hugarfari og sálar-ásigkomulagi þinu, hvørt þú vogar ad birtast eins og þú ert fyrir augliti þess alskygna, hvørt þú gétur nú verid viss um ad neyta þessa sakramentis verduglega i fyrsta sinni.

Lángt er nú sídan þú i skírninni varst ákvardadur til Jesú og dygdarinnar þjónustu; þá var og fyrir þína hønd lofad, ad þú skyldir med aldri og árum fordast allan ógudlegleika og trúa á Gud Fødur, Son og H. Anda. Hvad vel hefur þú haldid þenna sáttmála um þína lidnu æsku-tíd? eda hefur þú einusinni lagt nockra stund þará? Nei! þú hefur þrálega kastad á bak þér aptur þinum lofunum i skírninni, Gudi líka og dygdinni. Eda hefur þú ecki móti betri vitund fylgt vondum dæmum, vana og egin gyrndum tálmunarlaust optlega?

Sjálfur ertu nú búinn á ný med fullu rádi og skynsemi ad sverja Gudi þínum, Frelsara og dygd-

inni órjúfanlega trú og hollustu; hefur þú nú áselt þér ad halda betur hér eptir þessi þín egin heit, heldur enn þau sem adrir gjordu fyrir þig? Svarid uppá þetta spursmál liggur i þeim hjartans hræringum, þaunkum og áformum, sem nú sveima i þinni sálu. Þaraf getur þú markad á hvörjum vegi þú ert. Fáir dagar eru nú sídan ad þú lofadir ad láta af illu en læra gott ad gjøra; en hefur þú nú þá fáu daga gjørt þér nockurt ómak fyrir ad enda loford þín? ad betra þad vonda i þínu fari, nockra vonda tilhneiging, sem þú ádur varst hneigdur fyrir? eda hefur þú aflagt nockurn vondan vana sídan? finst þér þú vera nú nockud betri enn ádur þú varst stadfestur i sáttmálanum? eda ertu enn þad sama gálausa og eptirþánka-lausa hirdu- og skeytingar-lausa barn sem þú adur varst? sé nú þetta sídarsta tilfellid, þá ertú nú strax ordinn brotlegur, og hvørnin mun þá sídar fara, þegar þú byrjar med svo ógudlegt hyrduleysi, og skeytir engu hvørju þú hefur hátídlega lofad. Finst þér ecki ad þú blygdist þó fyrir mønnum, ad gjøra þig kunnann ad lýgi eda svikum vid medbrædur þína? en hvørnig getur þú þá af sømu náttúru, án stærstu minkunar reynst trygdarlaus eydrofi vid þann alvísa Gud, sem þeckir innstu fylsni þíns hjarta. O! kjæra úngmenni! hvørnin mundi þetta fara fyrir þér og svo morgum ødrum; ef þannig væri breytt vid medbrædur vora, hvørsu mundi þeim gedjast ad þvíliku? en sá alleina gódi Gud og miskunsami Fadir, hann,

má þessum kjørum sæta af sínum børnum, sem hann daglega yfireys med alskonar nád og blessan. O, blygdastu minn vin! ad breyta svo svíksamlega vid þann algóda Fødur, sem svo er nádugur ad fyrirgéfa þér uppaptr og aptur, ad audsýna þínum óendanlega gjædskurika Frelsara skammarlegt ræktarleysi og þretti í því sem þú hefur heilaglega lofad hønum til velþóknunar fyrir alla hans ómetanlegu velgjørninga, hønum, sem svo er nádugur og fús til ad fyrirgéfa allar breiskleika syndir, sem ætíd er til reidu ad taka forlíkun, hvad nær sem þú lætur af íllu og lærir gott ad gjøra. Þú veist þó fyrir víst, ad hvør sem med vanart, skeytingarleysi og ásetnings þverúd áfram heldur í hinu vonda, safnar sér reidi á reidi ofan og einni hegningu á adra ofan, fyrir ad hann forsmáir Guds nád og frambodnu miskunsemi. En hvør skyldi vera svo ómannesskjulega sinnadur, svo móti náttúrunnar medskapada edli vid siálfan sig breyta ómiskunsamlega, ad olla sér vísvitandi óttalegasta volædis og kvalrædis-kjara, þar sem innanhandar er, ad verda adnjótandi gledi og farsældar. Nú er þad eingum efa undirorpid, minn vin! ad þú skalt í tíma og eylífd eiga þér vísa Guds nád og kjærleika, sí-varandi fullkomnun og sanna farsæld, ef þú trúlega ástundar ad halda þad sem þú hefur Gudi lofad.

Já enn framar, viljir þú, úngi Kristni! ná ad lokunum verdlaunum hinna trúu þjóna, þeirri óforgengilegu lífsins kórónu, þá verdur þú trúlega þitt ved-

hlaup ad enda og því fyrirsetta takmarki ad ná. Það er einn ómøguleglęiki, þegar þín leid til verdlaunanna liggur til austurs, ad þú nálgist þau, nær þú til vesturs eda í mótsetta átt þreytir þitt hlaup; á líkann hátt gétur þú aldrei vordid sannkristinn, gódur, dygdugur madur, ef aldrei erfidar uppá þína betran; aldrei komist í himininn, ef þú stefnir allt í adra átt alla þína lífdaga, sem leidir til lasta, ódygda og heimskynnis þeirra ógudlegu vondu, milli hvørra og himinsins innbúa mikid djúp er stadfest. Stansa nú hér, og vel þér þegar stefnuna frá Jesú Kvøldmáltidarbordi, og þegar hún er valin ad Guds, samvitsku þinnar og skynseminnar rádi, svo vert henni trúr, halla þér hvørki til hægri né vinstri; en þessi heilaga athøfn skal fyrst í dag styrkja þig og síðan ávalt létta þér mædu og erfidleika þíns vegar. Sit nú fyrst ad þessu heilaga bordhaldi med hrærdu hjarta, upplyptri sálu til Guds, altekinn af sannri gudrækni og heiløgu fjøri til alls góds. En fridarins Gud tilreidi þig meir og framar til allra gódra verka og verki þad ávalt med þér, sem hønum sjálfum er þóknanlegt, amen.

